[Hins íslendska evangeliska smábókafélags rit Nr. 12.]

# Þrjú samtøl

millum

eins kénnimanns og eins hans tilheyrara,

útløgd eptir svenskri útleggíngu, samanborinni vid Þad engelska frumrit, af útgéfaranum.

## Fyrsta samtal.

Presturinn seigir: Gud géfi þér gódann dag, minn vin! Árla ertú nú á fótum, og kominn til umsýslunar þinnar! Þú ert búinn ad láta hyrda búsmala þinn, og þjónustufólk þitt er komid til síns erfidis. Þad sje eg, ad ydjusemi í veraldligum efnum liggur þér víst á hjarta.

Bóndinn svarar: Þad er aldeilis satt, prestur minn! Þad hlýtur líka svo ad vera. Madur verdur ad vinna fyrir klædum og fædi handa sér og sínum; landskuld og tollar verda ad lúkast, og allt þetta útkrefur mikla áhyggjusemi og erfidi.

Pr. Eingannveiginn vil eg ydinsemi þína lasta edur letja, því það er skylda þín að vera ecki latur í því, sem þér byrjar að vinna. En þú veitst líka vel þar hjá, minn vin! að þú hefur og svo eina adra köllun, heldur enn búskap þinn. Sálin heyrir og svo að klædast og fædast, og umsorgun hennar á að liggja þér í fremsta rúmi.

B. Já að vísu er það svo! það er það sem mest á liggur af öllu; en eg vona að eg ei heldur vanræki mína sálar velferð.

Pr. Að vísu hefi eg ecki staklega orsök að mistrysagja þig þarum, framar ödrum. En af því eg allstadar verd þess var, hvörsu almennt áhyggjulausir mennirnir eru um sína sálar velferd, þá verd eg mjög svo hugsjúkur þar út af, og þecki mig skyldugann að vara þá við þeirra sálar voda.

B. Eg held, prestur gódur, þér gjörid ydur verri þánka um oss, en þörf er á

Pr. Ef þú rædur það af þeirri umsorgum, sem eg ber fyrir yckar sanna besta, þá ferdú störum villt. Hvert á móti, elska eg yckur alla innilega og af hjarta; en kjærleikurinn heimtar ecki einúngis að þeckja vel um hvörn einn, heldur og svo að óska og verka til eins og sérhvörs besta. Ef eg tæki mér eckert nærri yckar andligu velferd, og ecki vottadi minstu hugsýki út af henni, þá væri eg vissuliga kjærleikslaus; en þá kanské menn

álitu mig þó fullann af kjærleika, ef eg lofaði allra-samvitsku að sofa í náðum.

V. Að vísu eru sumir af oss slæmir; þeir blóta, drecka, deila og lifa á ýmsann hátt óærligu og lastafullu líferni. En ecki breita þó allir svo. Hvað mér viðvíkur, þá vita allir að eg legg ástundun á hófsemi; eg hefi á mér gott og ærligt mannorð; sömuleiðis sæki eg kostgjæfiliga kyrkju mína og geing til Guðs borðs.

Pr. Og á þessu byggirðu nú von þína um himnaríki. En eg seigi þér einlægt, að uppá þessar ástæður einar, hefurðu einga von á dómsins deigi. Allt það þú hefur sagt um sjálfann þig, getur vel satt verið; en það er þá ecki minni sannleikur, að þú hefur og svo gjörðt þig sekann í óteljandi misverkum móti Guðs boðorðum; já móti einu og sérhvörju þeirra.

V. Hvör hefur, prestur minn! getað sagt yður nockuð þvílíkt um mig?

Pr. Sjálfur Guð, í sínu orði. Hann sýnir þar, að þú og eg og allir menn í heiminum eru fyrir hönum brotligir; að þeir "allir til samans eru syndarar og hafa af eingu sér fyrir hönum að hrósa", Róm. 3, 19. 23. Þessvegna er það þá sjálfur Guð, sem sökina á þig ber.

V. Eg hefi þó hvörki framið afguðadýrdkun, morð ellegar hórdóm.

Pr. Nú, hvört eitt af öllu þessu fyrir sig. Því adgjæt þú grandt: hefurdú aldrei elskad neinn hlut í heiminum meir enn Gud? hefurdú aldrei vanrækt neina þeckta skyldu þína, af því þad á líkamligann hátt hefur verid þér óþægi og örduget ad uppfylla hana? En allt þetta eru misbrot móti fyrsta bodordi"u, og í tilliti þess gétur þú því aldeilis ecki hrópad þig uppá þitt sakleysi. En allt eins lítt muntú géta fríkénnt þig frá ad hafa brotid á móti því ödru bodordinu. Því hvörsu ótalsinnum opt hefur þú ecki, ad naudsynjalausu og án heilagrar audmýktar, nefndt Guds nafn? Hvörsu brátt hefur þig ecki, svo vel vid þá opinberu Guds þjónustu í kyrkjunni, sem vid þínar andaktaræfíngar, heima hjá þér, brostid hjartans réttskickada lotníngu fyrir Gudi? Og allt þetta eru þó syndir móti því ödru bodordi. Sömuleidis nær þú á einum sunnudeigi hefur, ad forsaklalausu, forsómad opinbera Guds þjónustugjörd? ecki haldid þér frá heimsligum sýslunum, sem gétad hefdu gjördst á ödrum dögum; nær þú ecki hefur helgad þennann dag til Guds dýrdar, med því ad bidja Gud og vegsama hann, med ad halda gudligt samtal vid adra, edur med ad heyra, lesa og hugleida hans heilaga ord — nær þú hefur nú vanrækt allt þetta, svo hefur þú vanhelgad drottins dag, og brotid móti því þridja bodordinu. Nú, þar sem höfud innihald allra þessara bodorda er þetta: "elska skaltú drottinn Gud

þinn af öllu hjarta þínu", þá sierdú, ad ecki eitt einasta Adams barn gétur geingid fram og sagt: «allt þetta hefi eg haldid, allt frá mínum barndómi." Seigdú mér nú, hvad þér sýnist siálfum, um sakleysi þitt, í tilliti þinnar skyldu vid Gud, einasta eptir fyrri bodorda töblunni?

B. Þad er satt, eg gét ecki réttlætt mig í tilliti Guds, en hitt er vist, ad eg aldrei hefi neinni manneskju skada gjördt.

Pr. Ecki mundir þú svo tala, ef þú skildir þá andligu meiníngu Guds bodorda, hvörsu vídt hún nær, eptir því sem vor frelsari útlistadi hana í sinni predikun á fiallinu. Þar finnum vér, ad sá sem lítur eina kvinnu til ad girnast hana, hefur allareidu drýgt hór med henni í sínu hjarta, Matth. 5, 28. Sömuleidis, ad þad er fullkomid mannslag fyrir Gudi, nær madur reidist vid annann, og þó enn framar, nær reidin brýtst út med illum ordum; og hvör kann ad seigja sig frá öllu, svoddan réttiliga fríann? Ef þú nú vildir rannsaka þig á sama hátt, eptir hinum ödrum bodordunum, þá mundirdú fliótt verda var þinna misbrota, móti einu og sérhvörju þeirra. Því lát vera þú ei hafir forsmád födur og módur, kénnendur þína og adra yfirbodara, þá hefur þó heydran sú, er þú þeim veitta hefur, optast skéd einúngis fyrir augunum, þeim til þócknunar, en ei, svosem fyrir Guds augliti, af hjarta. Þar fyrir utan er öll vanheydran og lastmæli gégn

þeim, sem eru af hærri rød, øll kjærleiksláus og ósanngjørn breitni vid vora líka og undirhafandi, em synd móti fjórda bodordínu. Allt illt umtal, of brádir hleypidómar, og hvad helst, sem meidir og skérdir annara góda nafn og rikti, er mótstrídandi því átunda bodordi. Og lokſins øll óánægjusemi, møgl, øfund, ógreidasemi, ágyrnd, þad eru allt saman syndir, bannadar í þeim tveimur sídustu bodordum.

B. Þad synist þá vera alleinasta eitt bodordid, móti hvørju eg ecki syndgad hefi.

Pr. Ef þú þecktir sjálfann þig og løgmál Guds réttiliga, þá mundirdú ecki heldur frikénna þig frá ad hafa brotid og svo móti því sama bodordi. Taktú þad nú ecki illa upp, þó eg, af kjærleika til sálar þinnar, tali sannleikann breint út. Ad vísu trúi eg því aldeilis ecki, ad þú sért bærligur og þjófur; en hugsadú þig vel um; hefurdú aldrei til dæmis leitast vid ad dylja bresti og vansa á vøru þeirri, sem þú hefur selja viljad, af því þú hefur óttast, ad, ef þad kjæmist upp, sem ad henni væri, þá mundi varan alls ecki gánga þér út, edur ad minsta kosti ecki fyrir svo mikid verd, sem þú æskja vildir? Hefurdú ecki og svo leitast vid ad ábatast á annara þørf, og þesávegna gésid náúnga þínum minna fyrir þad, sem hann hefur neydst til ad selja þér, edur seldt hønum dýrara, þad sem hann hefur neydst ad þér ad kaupa, enn þad í rauninni hefur verdt verid?

Seig mér satt, vitnar nú ecki samvitska þín móti þér?

B. Hvad, prestur minn! á þennann hátt finst ecki ein einasta góð manneskja til á jördunni.

Pr. Það er og satt, minn vin! því ritníngin seigir: „þar er einginn sem gott gjöri, og ecki einn", Róm. 3, 12.

B. Það er þá velfarid, ad þér viljid ecki gjöra mig verri enn alla adra; svo þó eg sé syndari, þá eru hinir adrir það allt ad einu.

Pr. Ætlar þú þá ad hugga þig vid það, ad þú ert þeim stóra hóp líkur? en vit fyrir víst, ad afbötun sú gildir ecki fyrir Gudi, sem ei lætur sig villa af fjöldanum, fyrir hvörs augum einginn kann ad dyljast, og hvörs almættis armlegg eingiun heldur kann ad umflýa. Hefdirdú lifad í þeim gamla heimi fyrir flódid, ellegar í Sódóma, þá hefdirdú, med sömu þankum, vissuliga sofnad í andvaraleysi med ödrum, midt í þeim verstu glæpa vidurstigdum, allt þángad til þú, med þeim stóra hóp, hefdir mátt uppsvelgjast af syndaflódinu, edur aumkunarliga farast í þeim allt eydileggjanda eldi.

B. Med þessu móti fordæmid þér þá, prestur minn! alla veröldina.

Pr. Ad fordæma! það kann heilu veraldarinnar dómari alleinn ad gjöra. En eg kann ecki heldur ad þeigja yfir því, sem dómarinn, í sínu ordi, af öllum útkrefur.

B. Já, skuli það allt uppfyllast, hvør gétur þá hólpinn ordid? jafnvel ecki þér sjálfur, prestur minn! eda erud þér ecki ogsvo einn syndari?

Pr. Minn gódi vin! athuga vel, ad efni það, vid tølum um, er það allra mikilvægasta. Jú víst hefi eg syndgad, þúngliga syndgad, og þar med unnid til eilífs dauda; en Gudi hefur þóknast ad uppvekja mig til alvarligs ángurs út af syndum mínum. Hann hefur sýndt mér þá hættu, sem mér búin er, og komid mér til «ad umflýa þá tilkomandi reidi.» Hann hefur leidt mig á þann rétta veginn, þann veginn, sem opinadur er í hans evangelio; þá frelsun, sem þar frambýdst, hefi eg hjartanliga ad mér tekid, og hefi feingid fyrirgéfníngu fyrir trúna á Christum. En eg óttast, ad þó þú vidurkénnir, ad þú syndgad hafir, ad þú samt ecki þeckir réttiliga syndarinnar skélfiligu afleidíngar, edur hafir neitt sannarligt hjartans ángur út af þeim, edur hatur til þeirra. Ritníngin seigir: «ad syndarinnar verdlaun sé daudinn»; meiníngin er: sá eilífi daudi, edur fordæmíng til helvítis. Trúirdu því nú, ad þú, med syndum þínum, hafir unnid til eilífs dauda?

B. Já víst hefi eg til hans unnid, ef Gud vildi eptir straungum rétti vid mig breita. En eg trúi því líka, ad Gud sé miskunsamur, og gángi eckt i svo skarpann reikníng vid mig.

Vr. Eg óttast ad þú gjörir þér þá ímindun um Guds miskunsemi, sem hindrar eina sanna betrun. Þú smjadrar fyrir siálfum þér med von um Guds miskun, án þess þú hafir enn nú, sem ber, þeckt hvörsu þú, í ýtrasta máta, vesæll sért, svo leingi þig skortir ad hafa hlutdeild í henni. Og þannig viltu þá, nýta þér læknid balsamid, ádur enn þú særdur ert. En þad er þad sama, sem sá almátugi kallar: "eina léttvæga grædslu á sárum síns fólks." Vonin til Guds miskunar og nádar er tóm sálar svik, svo leingi madur ecki af rót þeckir og alvarliga ángrast og skélfist yfir-sinni ógurligu syndaspillíngu. Þú hefur enn nú, fyrir víst, ecki lærdt ad þeckja þinn andliga siúkdóm sem ber; og þó er þad í rauninni sú bannvæna synda líkþrá, sem þú allrafyrst hlýtur ad læra med hrædslu ad þeckja, ádur enn þú, sem naudþreingdur og fortapadur syndari, kannt rétt ad meta og inniliga ad ákalla naudhjálparann Jesúm Christum, til þess ad fá hjá honum miskunsemi og ráð fyrir sálu þina. Hugleid þú, hvörnig þad géck til fyrir tilheyrendum Peturs, sem umgétur gb. 2; þeir feingu einn sárann sorgar og hrædslu sting í sitt hjarta, og sögdu; «Þér menn og brædur! hvad skulum vér tilgjöra?" Eins géck þad fyrir fángaverdinum, er frásegir í 16 cap. ad hann titradi af skélfíngu yfir sínu fordæmanliga ástandi; og framsetti svo sönnu spurníngu.

B. Það er adgjætandi, að allir þeir menn, sem þér talið um, vóru vantrúaðir; en eg var í barnæsku minni skírdur, og er síðan uppfrædður í christiligum lærdómi, svo eg hefi alltíð verið trúaður.

Pr. Gádú vel að, minn vin! að þessi ímindan verði þér ecki að skada. Að vísu er það satt, að árla æfi þinnar varstú skírdur; en ransakadú vel hjartalag þitt og framferði, hvort þú ei olla-ríðu hafir leingi lifað án Guðs í heiminum. Þú afneitaðir í skírninni holdinu, heiminum og djöflinum, en hefur þú ecki samt og áður fylgt þessam Guðs og þinnar sálar óvinum, og látið leiðast af þeirra tælíngum? Hefurðú ecki breitt eptir heiminum í mörgu, og verið þeim stóra hóp líkur, í því að halda við hans hégómligu syndavenjur og siðu, sem optast stríða á móti Guðs heilaga orði og vilja? Hefurðú ecki margsinnum hlýðt holdsins tilhneigíngum og girndum, og ugglaust lifað í þeim syndum, sem litlar metast í manna augum? og á þann hátt hefur ei Guð — heldur Satan, verið þinn herra.

B. Nú vil eg þá gjarnan afneita öllum syndum, snúa mér til Guðs og betra mitt líferni.

Pr. Þessi þinn ásetníngur er að vísu góður, enn þó lodir vissuliga enn nú við hann raung ímindan. Þú vilt afneita syndinni og betra þig, en, eptir sem mér virðist, með þeim heimugliga þánka, að þessi þín betran skuli gjöra þig Guði

þöcknanligann og verdugann hans nádar í Christo; en þetta kallar ritníngin: «ad upprétta sitt eigid réttlæti." Hvert á móti, nær eg sie ad þú ert, af rót, sannfærdur um, ad þú hladinn sért synd og sektum í Guds augliti, ómakligur minstu nádar og óhæfur til allra gódra verka, sem og ad þú, eins og Job, hefur viddjód á sjálfum þér, sem einni vesælli fordæmdri og fortapadri manneskju, hvar í fullri örvæntíngu þinna eigin krapta, medtekur med stórri laungun, svosem þann yndisligasta bodskap frá himnum ofan, þá oss frambodnu frelsun fyrir trúna á Jesúm Christum; þegar þetta, segi eg, er ecki ad eins túngu þinnar, heldur hjartans málfæri, þá fyrst skal eg trúa, ad gott verk uppbyrjad sé í sálu þinni.

B. Þetta er of hardur lærdómur, hann er ei til annars, enn steipa mér í örvæntíngu.

Pr. Í sannleika ad segja, minn vin! Þækti mér vænt um ad sjá þig örvænta þínum eigin kraptum, já öllum þínum eigin góðverkum, jafnvel hinum allra bestu. Því ádur enn þad skédur, færdu aldrei réttiliga metid Jesúm Christum, né til hans af hjarta flúid, sem þíns einasta frelsara.

B. Eg læt þad vera, ad þetta allt, sem þér segid, kunni ad vera naudsýnligt fyrir þá, sem lifad hafa í grófum stórsyndum um æfi sína, en eg hefi alltíd lifad í nockrum Guds ótta, ydugliga farid til kyrkju, og alltíd verid trúadur.

Pr. Minn vin! eg efast um, ad þú nockurn tíma enn nú hafir sannkrúadur verid. Því þar sem þú hefur ecki réttiliga þeckt og séd háskastand sálar þinnar, þessvegna hefur þig aldrei heldur kunnad réttiliga ad lánga eptir frelsuninni. Þú hefur alltíð smjadrad sjálfum þér, ad þú værir eitt Guds barn, edur ad minsta kosti yrdir þad, ef þú ad eins nockud lítid betradir líferni þitt; og þetta hefur í raun og veru ecki verid neitt annad, enn ad treysta á sjálfann sig. Og allt eins svikull hefur ásetníngur þinn verid, ad aflegaja syndina og afneita henni, og ad snúa þér til Guds. Því hvad er varid í umvendun þess syndara til Guds, sem enn nú aldrei hefur réttiliga þeckt sig vera frá Gudi snúinn? Í sannleika eru allar þínar hjartans fyrirtektir, gyrndir og tilhneigíngar rótspilltar og syndugar. Í stad þess ad leitast vid ad þóknast Gudi, hefur þú einasta leitast vid ad þóknast sjálfum þér, og fridstilla þína spilltu náttúru, med eptirlæti, audlegd og vyrdíngum, ad því leiti sem í þínu valdi stadid hefur, og þarmed hefur þú viljad ánægja þínum holdsgyrndum; en ritníngin segir þó: ad holdligt sinnislag sé fjandskapur í gégn Gudi, Róm. 8, 7. og fjandskapur þessi lætur sig í ljósi í þeim vidbjód og leida, sem þú hefur í þér til þess ad hlýda Guds bodordum. Því hann, sem vera skyldi vort hærsta góda, og vid hvorn madur, í launkum sínum, ætti helst og optast ad umgáng-

ast, um hann hefur þú opt heila dagin eckert þeinkt, heldur þvert á móti stúid og fordast aldarliga umhugsun um hann og um eilífdina, rétt eins og það spilla mundi þinni sinnis rósemi. Og nær þánkar þessir uppkviknad hafa í sálu þinni, hefur þú útdrifid þá og eydt þeim, med hégómligu samtali vid adra, fánýtum dægrastytt/ingum og veraldar sýslunum. Eg hrópa mig nú uppá samviitsku þína, hún skal vitna ad þetta er sannleikur. Já í fám ordum ad seigja: allt híngad til hefur þú geingid á villustigum, verid blindur í tilliti háskans, sem yfir þér vofad hefur, tálvreigid sjálfann þig, en samt heitid sálu þinni fridi, þar þó einginn fridur verid hefur.

Hugleidtú nú hvad eg sagt hefi; taktú biblíuna, lestú hana og ransakadú sjálfann þig þar út af; trúdu svo á drottinn Jesúm og bid Gud af öllu hjarta, ad hann gefi þér sinn anda, upplýsi þína skynsemi, og velti þér réttan dóm á ad leggja í þessari sök, á hvorri gjörvöll velferd þín um tíma og eilífd ríður.

## Annad samtal.

Presturinn. Nú eru allareidú lidnir ædi margir dagar sídan vid, í fyrra sinni, töludum saman, og eg óskst vid, ad þú, minn vin! mundir fyrri koma til mín aptur, til ad fá hiá mér frekari upplýsingu um það mikilvæga efni, er vid í fyrra sinni áttum tal um.

Bóndinn. Satt ad segja, prestur minn! ef eg tala skal rétt eins og mér í brjósti býr, þá þócktí mér ecki svo mikid koma til ockar síðarsta samtals, ad eg gjæsi um svo skjótt ad heyra meira þesshattar.

Pr. Hvad var þad þá helst, er þér mislíkadi í því tali?

B. Þad skal eg seigja ydur; sumpart var mér þad nærsta ógédfeldt, ad þér dæmdud mig svo hardt, sem mér þá sanst þér gjöra, og settud mig í hóp med þeim verstu manneskjum; sumpart fann eg þó, ad mikid í því var satt, sem þér sögdud. En ad húgsa útí þad, ætladi ad gjöra mig stúnisveikann.

Pr. Heldurdú þó ecki, ad þad sem eg taladi vid þig, hafi stoрid af elsku til sálar þinnar?

B. Já, núna er eg ordinn framar sannfærdur þarum, enn eg var þá.

Pr. Hvad er þad sem ollad hefur þeirri umbreitíngu þánka þinna?

B. Þad er predikunin ydar í gjærdag um sídarsta dóm. Eg hefi, í sannleika ad segja, allt af verid mikid óróligur, sídan eg heyrdi hana, því eg óttast mikiliga, ad ef dómur edur daudi skyldi nú yfir mig falla, ad eg þá sinnist ótilreiddur, og — Gud vægi mér — hvad vill þá verda af sálu minni!

Pr. Þá væri þad víst of seint fyrir þig ad gyrnast mád og vona hennar. En hvad var

það sérdeilis í predikuninni, sem vakti þessa þánka með þér?

B. Það var það, þegar þér sönduð oss tilheyrendum yðar út af Matth. 25, að dómur Guðs byrjaðist á þann hátt, að þeir góðu yrðu aðskildir frá þeim vondu, og gáfuð í skyn þar hjá, að aðskilnaður sá byrjaði allareiðu strax í þessu lífi, svoleiðis að þeir réttlátu skiljast frá þeim vondu með það slag, að þeir fyrri hafa sig sjálfa burtu frá selskap og umgeingni þeirra vondu, að þeir ei skuli afvegaleiðast af þeim til vondra verka. Nú veit eg mig aldrei hafa fundið hjá mér nockra þvílíka umbreitíngu, og eg óttast það fyrir, að eg sé í syndarinnar og reiðinnar standi, í hvarju þér sögðuð að allir menn væri af náttúrunni.

Pr. Í sannleika, minn vin! Þá hefur þú stóra orsök hræddur að vera. Nú sagði eg í predikuninni, að þeir sem á dóms deigi yrðu réttlátir álitnir, væru þvílíkir menn, sem hér í lífi tekið hefðu tilflugt sitt til drottins Jesúm Christum, hvörsu margar og stórar sem þeirra syndir verið hefðu, og hefðu svo feingið hjá Jesú fyrir trúna, það réttlæti, sem fyrir Guði gildir, og svo orðið helgaðir fyrir Guðs anda, sem í þeim skapað hefði eitt nýtt hjartalag, og hefðu síðan upp frá því allt til dauðans, látið þessa umbreitíngu hjarta síns í ljósi, með guðligum lifnaði. En eg sagði, að hinir ránglátu væru þeir sem lifað og

dáid hefdu fyrir utan sanna trú á Jesúm Christum, og án Guds anda íbúdar, jafnvel þó þeir lifad hefdu hinu regluligasta og sidsamasta líferni ad ødru leiti.

B. Já þetta er og hid sama, sem vakti hrædslu í hiarta mínu. Því eptir þessum Jesú ordum: „hvør sem trúir, skal hólpinn verda, og hvør sem ecki trúir, skal verda fordæmdur" søgdud þér oss, ad sú dygdugasta manneskja í heimsins augum sé þó nógu brotlig fyrir Gudi, til ad vera fordæmíngar maklig, svo framt hún dæi fyrir utan sanna trú á Christum; en yrdi hún, ádur enn hún dæi, til nádar tekin og eitt Gudsbarn fyrir lifandi trú á Jesúm, þá mundi ecki einnar einustu af øllum hennar syndum á dómsdeigi minst verda. Og til þess ad sanna þetta enn framar fyrir oss, søgdud þér, ad, eptir því sem Matthæus framfærir Jesú ord, verdur eingin af syndum þeirra réttlátu á nafn nefnd á þeim deigi af dómaranum, og ei heldur nockurt einasta eitt af góðverkum hinna vondu.

Pr. Þetta er aldeilis rétt; því þeir ógudligu hafa í rauninni eingin góðverk fyrir sig ad bera; því allt hvad þeir í lífi sínu gjøra gott ad kalla, og láta ógjørdt þad illa, framkémur af saurugri uppsprettu; annadhvørt af veraldligum tilgángi, edur í því augnamidi, ad þeir vilja þócknast Gudi med dygdum sínum. En þetta er

ad vilja, hvert á móti Guds ordi, verda réttlátur af verkum lögmálsins. Róm. 3, 20. 24. 28. Fyrir þessa skuld verdur eckert tillit haft til góðverka hinna vantrúudu, þar þaug ecki sprettá af kjærleikanum til Christum, og af þeim krapti, sem hann meddeilir, "því án mín, seigir frelsarinn, Jóh. 15, 5. fáid þér eckert gjørdt." Þeir réttlátu þar á móti eru, fyrir Christum, þacknæmir ordnir og hreinsadir í hans blódi. Þessvegna verda syndir þeirra ecki nefndar, svo sem laungu ádur fyrirgéfnar og afplánadar; og þeirra ófullkomnu góðverk eru Gudi þócknanlig fyrir Jesú Christi, þeirra ypparsta prests sakir, sem tilreiknar þeim sitt fullkomna réttlæti, svo ad þeir, af þeim miskunsama dómara, ødlast nádarinnar verdlaun. Sá eiginligi adskilnadur millum þeirra gudhræddu og ógudligu, er þessvegna sá: ad þeir fyr nefndu verda álýktadir réttlátir, fyrir þad þeir feingid hafa fyrirgéfníngu fyrir trúna á Christum, þad stóra offur fyrir heimsins syndir, med hvørt Gud er fylliliga ánægdur. Þeir sídari þar á móti, sem aldrei haft hafa nockra rétta tilsinníngu síns synduga og spillta ástands, og þarfyrir ecki heldur leitast vid ad verda hluttakandi í þeirri nád, sem í evangelío opinberud er; hvørsvegna þeir, þegar dómarinn kémur, standa einir uppi og hafa eingann medalgángara og einga fyrirgéfníngu, og hljóta þessvegna fordæmdir ad verda.

B. En hvarforir verdur þá nockud minst vel kanna á þeim deigi, eins og Christinr gjørir, svo sé einginn verdur sáluhólpinn fyrir þaug, heldur fyrir trúna?

Pr. Tvær eru orsakir til þess: sú fyrri, ad eins og madur af ávøxtunum þeckir tréd, svo þéna sønn góðverk til ad adgreina þá trúudu frá þeim vantrúudu. Sú sídari orsøkin er: ad þær ólíku trøppur, í því tilliti hvad trúadir menn eru ávaxtsarsamir af gódum verkum, gjøra adgreiníngu á millum sjálfra þeirra, hvad snertir þá huggun, sem Gudi, af nád sinni, þóknast ad meddeila þeim í þessu lífi, og líka þá misjøfnu dýrd sem — í tilliti þeirra misjøfnu góðverka — býdur þeirra annars heims.

B. Eg héldt ad vér, hinir christnu, værum allir til samans trúadir, sá eini svo vel sem sá annar, og ad á dómsdeigi mundu þeir allir verda álitnir fyrir gudhrædda, sem hér í lífi hafa hafa eitt dygdugt, ærligt og sidsamligt framferdi, og á medal þessara reiknadi eg sjálfann mig, og alla þá sem mér betri eru. En ad allir þeir ógudligu — eg meina allir þeir, sem med þverúd og framhaldi, liggja í syndum ogløstum, skyldu verda fordæmdir. Ad vísu sló opt ad mér einslags ugg og kvída fyrir því, ad eg kannské heyrdi ogsvo þeim hópnum til, en eg smjadradi strax aptur fyrir mér, ad eg væri þó miklu betri, enn margir þeirra sem eg þeckti.

Pr. Svoleidis ad álýkta, hefur þú aldrei lærdt af Guds ordi. En hvílíka þánka hefur þú nú?

B. Eg sje nú fyrir víst, hvørsu allt rídur á því, ad eg fái nád og fyrirgéfníngu fyrir allt þad umlidna, medan eg enn nú er hér á jørdunni; og ad þvílíkt gétur þó ei skéd fyrir nockurs míns verks sakir, heldur alleinasta fyrir trúna á Jesúm Christum; því eg veit nú, ad eg hefi aldrei annad verid, enn írávikinn þeim rétta veigi.

Pr. Þad er í sannleika ogsvo minn þánki; og þessvegna er þad hin allrastærsta naudsýn fyrir þig ad uppvakna af þínum syndasvefni, og af allri alvøru leita drottins, medan þú gétur fundid hann; annars kantú ad deya í þínum syndum, og þá mun hlutskipti þitt vissuliga verda med þeim ránglátu.

B. Ja, þad er þad sem eg óttast størliga fyrir; því eg sje nú vel, ad eg stend í skuld vid Gud, fyrir þúsund sinnum þúsund syndir, og eg verd ecki var annars enn eintómra synda, í øllu því sem eg hefi gjørdt, og enn nú gjøri.

Pr. Hvad ætlardú þá til ad gjøra?

B. Eg veit eckert annad rád, enn ad umflýa syndina og gjøra þad góda, samt vaka og bidja.

Pr. En nú vidurkénnir þú sjálfur, ad syndin blandi sér inní allar þessar þínar athafnir, svo gódar sem þær sýnast; hvørnig géta þær þá gjørdt þig þécknanligann fyrir Gudi? Og þó þú gjætir

afkastad ollum þessum athofnum aldrei svo vel, þá gjordirdu þó ecki annad enn skyldu þína, og kann hún eingann veginn verda betalíngur fyrir þad, sem þú ádur hefur vanrækt og misbrotid.

B. Svo veit eg þá eckert ráð til vera. Og ef nockrusinni fundist hefur ein fortapud sál á jordunni, þá er eg þad vissuliga. Æ hvad skal eg til giora?

Pr. Gjorid yfirbót, ad þér odlast meigid fyrirgéfníngu ydvarra synda, sagdi Petur fordum til sinna tilheyrenda, nær þeir framsettu fyrir hann þessa somu spurníngu; og þad sama svar géf eg þér nú.

B. Eg vona eg allareidu hafa betrad mig, ad minsta kosti er eg fullviss um, ad liferni mitt er ecki þvílíkt, sem þad ádur verid hefur.

Pr. Nær í heilagri ritníngu talast um ad gjora yfirbót, þá skilst þarmed ecki einúngis útvortis betran í lifnadinum, heldur meinast til eins sannarligs hugar ángurs og hjartalagsins umbreitíngar nefniliga, sem verkast fyrir sanna elskufulla trú á Guds son. Einnar manneskju útvortis hegdan kann mikid ad betrast, hún kann ad hafa látid af ad ydka margar grófar syndir og lostu, og tekid fyrir sig ad æfa margar christiligar skyldur; en hana kann þó eingu ad sídur ad vanta þá sonnu betrun, ellegar þad nýja hjartalag, sem ritníngin umtalar. En hvar sem helst eitt sannarligt hugarángur og innvortis betran

fram kémur, þar fylgist alltíd ein fullkomin lifnadarins umbreitíng med. Madur finnur þá hjá sér inniliga laungun og vidleitni bædi ad láta af syndunum og stunda eptir heilægu líferni. Hefur nú ein þvílík umbreitíng skéd í hjarta þínu?

B. Það þori eg ecki ad seigja, en hitt, ad eg sorga yfir syndum mínum, þad veit eg fyrir víst.

Pr. Þar gétur verid mikil sorg út af syndinni hjá einni manneskju, og þó eingin sönn betran hafi stad. Saul hrygdist svo vel af syndum sínum sem Davíd, og Júdas svo vel sem Petur, þó vard afleidíngin hin ólíkasta. Postulinn Paulus talar og svo um tvenslags hrigd, nefniliga um eina hrigd eptir Guds sinni, sem verkar betrun til sálúhjálpar, hvarrar eingann ydrar, og um adra hrigd, sem verkar daudann. 2 Cor. 7, 10. Skuli nú hrigd þín vera réttrar artar, þá má hún eingannveiginn einskostar framkoma af ótta fyrir því straffi, tímanligu og eilífu, sem þú sjálfsum þér, med syndunum, bakad hefur, heldur allrahelst af íhugun þess straffs, sem Gud lagdi uppá sinn eingétinn son, þinna vegna. Þarfyrir verdur þú ad láta Jesú pínu og dauda gánga þér alvarliga til hjarta, ef þú vilt géta sorgad yfir syndum þínum svo Gudi líki, því eingin onnur hrigd, þeirra vegna, hefur nockurt álit í hans augum, og af henni fylgir þá þvílík sinnis umbreitíng hjá þér, sem ritníngin kallar sinnaskipti til lífsins. Gb. 11, 18.

B. Þarf eg þá ecki neitt sérligt verk annad fyrir mig ádur ad taka, svo eg finni nád hjá Gudi.

Pr. Aldeilis eckert; «því af lögmálsins verkum gétur eingin manneskja fyrir Gudi réttlát ordid,» öll vidleitni ad þóknast Gudi er hégómlig og ónýt, nær hún geingur á undan ángrinu út af syndinni og trúnni á Jesúm Christum. Ad vísu kann ein stór betran lífernisins ad hafa stad, ádur enn trúin kviknar, og þú kannt ad leggja á þig stóra mædu til ad undirbúa sjálfann þig, til ad géta tekid á móti sáluhjálpinni fyrir Christum. En med þessum atburdum nálægist þú Gud eckert framar enn ella, heldur jafnvel, í vissu tilliti, eykur ansvar þitt, því öll svoddan vidleitni er eckert annad, enn ad uppbyggja sitt eigid réttlæti. Þad máttu því fyrir satt halda, ad þú aldrei á þann hátt færd nád fyrir hans augnamidi. En skuli réttlætid nockru sinni verda þitt hlutskipti, þá hlýtur þú, svo sem hinn vesælasti syndari, ad leita þess einúngis fyrir trúna. Róm. 9, 30. 32.

B. En hvar í er þá trúin falin, sem þér talid um?

Pr. Hún er í því falin, ad undireins og madur, sem eg ádur sagdi, hugleidir þá píslt, sem Guds sonur leid saklaus mannanna vegna, og ángrast út af því, ad hann med syndum sínum hafi þvílíkum ósköpum af stad komid, ad Gud í mannligu holdi hafi fyrir þær píust og dáid, minnist hann þess, ad rétt med því sama betaladi

þó Jesús og borgadi allar heimsins syndir, svo hvør sá, sem á hann trúir, er qvittur vid lifanda Gud fyrir hans sakir, þar þá er svo gott, sem hann sjálfur framberi þad slátrada Guds lamb, Gudi til offurs fyrir syndir sínar, fyrir hvørs skuld madur verdur þá réttlátur og sáluhólpinn. Þessu trúir hann, og uppá þad reidir hann sig.

B. Verda þá allir, sem þessu trúa, sáluhólpnir?

Pr. Svo seigir ritníngin: «Eins og Moyses upphóf eyrorminn á eydimørku, svo hlýtur og svo mannsins sonur upphafinn ad verda, uppá þad, ad hvør, sem á hann trúir, ecki skuli fortapast, heldur hafa eilíft líf. Jóh. 3, 14. Fyrir Christi sakir, skal hvør og einn, sem á hann trúir, verda réttlættur af allri synd, gb. 15, 3. 9. Sá sem trúir ad Jesús sé Guds son, hann er fæddur af Gudi, 1 Joh. 5, 1." A þennann hátt, seigir ritníngin oss þad med fullri vissu, ótal vída, ad hvør og einn sem á Christum trúi, skuli sáluhólpinn verda.

B. En vér allir sem christnir kollumst, trúum þó þessu. Fyrir mína personu hefi eg alltíd trúad því, ad Jesús sé Guds son, og ad hann sé í heiminn kominn, til ad frelsa syndarana.

Pr. Ad vísu seigja allir svo, ad þeir trúi þessu. En margra trú, í þessu tilliti, er bygd á mannanna, en ecki Guds vitnisburdi. Þeim hefur frá barndómi verid svo kennt, ad Jesús Christur sé

Guds son og syndaranna frelsari; en þeir hafa þó aldrei, hvor um sig, feingid þessa sannfæríngu, út af sjálfri sannleikans ordi, ei heldur skilja þeir alls rétt meiníngu þess, sem þeir játa sig trúa. Ad trú þeirra ecki réttskickud sé gefur breitni þeirra ljósliga til kynna. Sú sanna trú, hjá hvørjum sem hún er, leidir alltíd syndarann til þess, ad afneita øllu trausti eigin verka edur krapta, en einúngis ad hvíla vid Guds nád í Jesú Christo.

Þar ad auki hlýtur ein sonn trú allríd ad vera lifandi, og sýna sig þvílíka í heitri elsku til Guds fyrir Jesúm Christum, af hvørri elsku þá fortakslaust sprettur alvarlig ástundan ad varast ad styggja Gud med syndinni, en hjartanlig laungun og kappsmunir ad giøra hans vilja í øllum hlutum, sømuleidis hreinskilin elska til náúngans, er kémur manni til ad leitast vid ad efla hans líkamliga og einkum andliga velferd, án mannagreinar álits. Verdir þú nú af þessari trú inntekinn, særdú ad reyna þad í sjálfum þér, ad Jesús frelsar sitt fólk, ei einúngis, frá syndarinnar straffi, heldur og svo frá hennar yfirrádum og drottnandi gyrndum; og þegar þú nú þróast í þessari trú, og heldur þér trúliga vid Jesú lærdóm og bodord, mundú, hvad af hvørju, fyrir nádina, ødlast eina huggunarfulla von um þad, ad þú hólpinn verdir, á þeim stóra Jesú Christi deigi.

B. En syndir mínar eru svo margar og svo stórar, ad eg óttast þar sé eingin frelsun fyrir mig.

Pr. Ef þú ad eins í sannleika trýdir því sem ritníngin seigir um Christum, mættir þú vera sannfærdur um, ad hann máttugur er hólpna ad gjöra jafnvel þá allra stærstu syndara. Því það offur, sem hann frambar, var ecki fyrir sumra manna — heldur gjörvalls heimsins — syndir, 1 Joh. 2, 2. Jesú Christi Guds sonar blód, hefur í sér óendanligt verd, og það hreinsar oss af öllum vorum syndum, E. 1, 7. Það er eitt stadfast ord, og í allann máta makligt þess, ad því trúad sé, ad Jesús Christur er í heiminn kominn syndugа menn sáluhólpna ad gjöra, 1 Tim. 1, 15.

B. Þetta eru ad sönnu mikid huggunarfull ord, ad eins eg gæti verid fullviss um, ad Gud vildi gjöra mig hólpinn.

Pr. O minn vin! Gud hefur þó sagt, já svarid vid sjálfann sig, ad hann ei hafi þócknun á nockurs syndugs mans dauda, heldur ad hann snúi sér og lifi. Hann vill ad allir hólpnir verdi og til sannleikans vidurkénníngar komist. Og þú hefur allareidu heyrdt, ad hann, í sínu ordi til könna géfur, ad hvör sá sem á hann trúi skuli hólpinn verda. Hjá Gudi er í þessu tilliti eckert forsak; þessvegna þarftú ecki heldur efast um hans kúsleika ad frelsa þig. «Trú þú, og muntú hólpinn verda!" sjá, þetta er heila inntakid af öllu Guds evangelio! Eg bid ad þú leggir það vel á hjartad. Vit fyrir víst, ad ef þú fortapadur verdur, þá kémur það ei af því, ad

drottinn sé óviljugur ad frelsa þig, heldur rís þad einúngis af vantrú þinni, hvar í rauninni eckert er annad enn viljaleysi sjálfs þín ad verda af drottni Jesú frelsadur. Heyrdú hans kløgun yfir gydínga fólki: "Hvørsu opt hefi eg viljad saman-safna ydur, en þér hafid þad ecki viljad. Til mín viljid þér ecki koma, svo þér mættud fá lífid." Þessa sømu umkvartan hefur hann enn nú yfir øllum óumvendtum syndurum.

B. Þad var satt, ad gydíngar vildu ecki móti Jesú taka, af því þeir trúdu því ecki, ad hann væri Guds sonur, en þad gét eg ecki skilid, ad nockur madur sé sá, sem ecki vilji láta Jesúm gjøra sig sáluhólpinn.

Pr. Gjæt ad, minn vin! gydíngar vildu ecki trúa því Jesús væri Guds sonur, og þeirra frelsari á þann hátt, sem han sagdist vera þad; en þó vildu þeir gjarnan einn frelsara fá, eptir sínu høfdi. Eins er þad fyrir þeim óumvendtu Christnu; þeir vilja ad sønnu frelsid fá hjá Jesú, en ecki med þad slag, sem hann í evángelío gjørir þeim kost á því. Þeir vilja hann frelsi sig frá syndarinnar straffi; en vilja samt ecki géfa sig undir trúarinnar hlýdni; og þá er þad hid sama, sem þeir sjálfs frelsid af honum ei þyggja vilji.

B. Svo er eg þá stórliga hræddur um, ad eg ecki hafi þá sønnu trú, eins og þér hafid útmálad ad hún vera skyldi, og þessvegna vogast

eg ei heldur til að eigna mér Guðs náðar fyrirheit, þó eg ángraður sé út af syndum mínum.

Pr. Eg sie það enn nú af orðum þínum, að þú ei gjörir þér alls rétta smindum úm lærdóm evangelii. Gjæt að, Gud tekur einga manneskju til náðar, fyrir hennar trúar skuld, heldur einasta fyrir Jesú Christi sakir. Nú vyrdist mér, að þú óskir, að þú hefdir eina fullkomna trú, til þess þú eiga mættir nockuð það hjá sjálfum þér, við hvað þú mættir hugga þig um það, að þú fá munir náð hjá Gudi. Svo dylur sig þá hofmódur hjá þér, undir audmýktar búnaði. Þig skyrrir við því mest af öllu, að koma ber og nakinn á Jesú fund. En þegar Gud fyrirgéfur syndirnar, hefur hann ekkert tillit til neins annars, enn Jesú Christi blóðs og dauda; og ef þú kémur til hans í þeirri huggunarfullu sannfæríngu, að hans blóð sé kreyptugt til að hreinsa þig af öllum syndum, og hrópar þig uppá það fyrir Gudi, svo sem þann einasta grundvöll þinnar réttlætíngar, svo ertú allareidu hluttakandi orðinn í þeirri sönnu trú, eptir evangelío.

B. Nú þori eg ecki að koma, svo útlítandi sem eg er, til Christum, og reida mig uppá hann, því eg finn mig öldúngis óverdugann allra minstu náðar.

Pr. Hvonær hugsar þú sjálfur gétir gjørdt þig verdugann?

B. Það ætla eg víst eg aldrei géti.

Pr. Svo trúdu þá Jesú ordum, og komdú, rétt svo sem þú líiur út, til hans, til þess ad hann gjøri þig verdugann.

B. Æ! má eg þá vogast ad koma svoleidis til Christum, og reida mig uppá ad hann gjøri mig sáluhólpinn?

Pr. Trúdu ecki minnum ordum í þessu tilliti, heldur Guds! Heyr hvørsu hann hjá Es. 55 býdur þér ad koma: «Nú vel allir þér sem þyrstir erud, komid híngad til vatnsins", seigir hann. Já hann skipar þér ad koma, því svo seigir Jóhannes 1 Cap. 3, 23.: «Pad er hans bodord, ad vér trúa skulum á nafn hans sonar Jesú Christi." Og loksins lofar hann ad taka á móti þeim sem til hans koma, Jóh. 6, 37. seigjandi: "Pann sem til mín kémur, vil eg ecki útreka." Somuleidis hjá Matth. 11, 28.: Komid til mín allir þér sem erfidi drýgid, og þúnga erud þjádir, ydur vil eg endurnæra!"

B. O hvørsu gjarnan skylda eg koma, ef eg ad eins findi nockra huggunarsama fullvissu í hjarta mínu, um þad ad eg hafi hlutdeild í Christo.

Pr Enn þá vyrdist mér þú villt farir, í tilliti þess grundvallar á hvørjum einn syndari byggja skal huggun sína. Ad vísu er þad eitt hid mikilvægasta efni, fyrir hvørja eina manneskju, ad vera fyrir sína eigin persónu fullviss um, ad hún hlutdeild hafi í Jesú Christo. En fullvissa þessi er þó ecki brunnurinn, úr hvørjum þú upp-

ausa skalt huggun fyrir hjarta þitt, heldur er hann einginn annar, enn vitnisburdur Guds um sinn son, og hans ótáldrægu fyrirheit, ad hvør og einn, sem á soninn trúir, skuli hafa eilíft líf. En þú villt gjøra þína eigin tilfinníngu og reynslu ad grundvelli vissu þinnar um Guds nád, þar þó þessi tilfinníng og reynsla flýtur einúngis af medtekníngu Guds nádar; og þessvegna er Guds nád grundvøllur þessarar reynslu og fullvissu, en ei fullvissan Guds nádar; því þegar madur hefur fyrst trúad á Guds son, sem alls heimsins frelsara, þá kémur þessi fullvissa þar med, sem full er af guddómligri huggun og fagnudi. Þad er Gud vonarinnar einúngis, sem uppfylla kann þig med fridi og fagnudi í trúnni, Róm. 15, 13. Og þad er þad, sem eg hefi ádur sagt, ad hvørki trúin, né sú huggun, sem af henni flýtur er mannsins verk, heldur Guds gáfa. Leitastú þarfyrir vid ad fá hana, eins og ferhvørja adra blessun af Gudi, fyrir audmjúka og inniliga bæn í Jesú nafni. Og til ad upphvetja þig hér til, svo athuga, ad Gud útgaf sinn eingétinn son, einasta fyrir þá skuld, ad hann skyldi syndugа menn sáluhólpna gjøra. Fyrir þessa einustu orsøk er hann madur ordinn; fyrir þessa skuld hefur hann allt þad erfidad, sem hann hér á jørdunni erfidadi í heil 33 ár; fyrir þessa skuld hefur hann úthellt svo mørgum bænum, tárum og blódi, og loksins lidid þann smánarligasta dauda; fyrir þessa skuld

uppreis hann frá dauðum, er setstur til Guðs hægri handar og biður fyrir oss.

B. Eg er sárliga hræddur, að eg aldrei verði frelsaður og sáluhólpinn. Enn þó sje eg eingann annann veg þar til, enn einúngis Guðs frýu náð í Christo Jesú; þar fyrir vil eg leita hennar, og það svo leingi, sem eg er til; og skyldi eg fortapast, skal það ské fyrir fótum þess krossfesta Jesú, midt í því að eg er að hrópa eptir hans náð.

Pr. Sjá! þetta er það rétta áform! ef þú svoleiðis leitar náðarinnar, mun það aldeilis ecki til forgéfins verða; því aldrei hefur enn nú nockur sá syndari fortapast, sem náðar leitaði hjá þeim krossfesta Jesú Sé nú þetta þín rótgróin hjartans alvara, svo hefur þú allareiðu hlutdeild í Christo feingið, þó þú vitir það ecki, og oll evangelii náðar fyrirheit heyra þér til. En gjættu að því, að þú látir ecki þessa þína alvøru hverfa, svo þú ecki síðan nemir staðar í følskum friði. Leitaðú þessvegna aldrei endurnærlugar hjá neinum øðrum enn Jesú Christo. Varaðu þig vel, að ecki heimsins umsýslanir, eður hans eptirlæti snúi þinni athugasemi frá guðligum hlutum, svo þú ecki með nockurri vísvitandi synd hryggir heilanda. Lát þér koma til hugar orð þaug, sem frelsarinn sagði: „hvør hann leggur høndina á plóginn, og lítur til baka, sá er ecki hæfur til Guðs ríkis“, Luc. 9, 62.

## Þridja samtal.

B. Eg vona þess, prestur minn! þér takid þad ecki illa upp fyrir mér, þó eg nú aptur á ný gjøri ydur ónædi; því eg óska hjartanliga ad fá ad framhalda ockar fyrra samtali.

Pr. Þú þarft ecki ad hafa neina afsøkun, minn vin! í þessu tilliti. Þad skyldi vera mér stærsta gledi, ef einn og sérhvør minna søknarmanna edur tilheyranda vildi gjøra mér þvílíkt eitt ónædi, sem þú nú gjørir.

B. Eg fæ ecki ordum ad komid, hvad mikid eg á ydur ad þacka, fyrir ydar trúfastu uppfrædíngu í ydar fyrra samtali. Eg hefi reyndt mikla blessun þaraf í mínu hjarta.

Pr. Hvørja þánka gjørir þú þér þá nú um þinn umlidna lifnad?

B. Hvad mínum umlidna lifnadi vidvíkur, þá hefur hann verid eitt sífeldt framhald í syndum og þvermódsku gégn nádugum Gudi. Allir mínir þánkar, ord og verk hafa verid full af syndum. Adur hafdi eg þeinkt, ad eg hefdi gott hjartalag, en nú finn eg, ad øll mín hjartans fyrirtekt hefur vond verid í frá bárndómi. Eg er fullkomliga kominn ad raun um, ad hjartad, því midur, er sú óhreina uppspretta, útaf hvørri allt þad vonda flotid hefur, sem saurgad hefur leyndt og ljóst mitt liferni. En blessadur veri Gud! eg trúi fyrir víst, ad hann, eptir sínu fyrirheiti, hafi nú

gefið mér eitt nýtt hjarta og nýann anda, uppfyltann með von og gleði, út af trúnni af Jesúm Christum.

Pr. A hvörju byggir þú þá von þína?

B. Ecki á neinum þeim hlut, er eg sjálfur gjørdt hefi. Því eg hefi ecki annað forskuldað, enn eilífa útskúfun; heldur byggi eg hana eingúngis á Jesú Christi fullnægjugjørð og algildu forþénustu. Að undanförnu hefi eg meint, að til minnar sáluhjálpar ridi nockuð á verkum mínum, en eg hefi nú feingið aðra sannfæríngu. Þær ritníngargreinir, sem þér tilfærðuð um sáluhjálpina fyrir trúna án verkanna, hafa verið mér til mikillrar huggunar; svo sem til dæmis það sem stendur í pistlinum til Tit. 3, 5. 7. «Ecki fyrir réttlætisins verka sakir, sem vér gjørdt höfðum, heldur eptir sinni miskunsemi, gjørði hann oss sáluhólpna, fyrir endurgétníngarlaugina og endurnýúngu heilags anda, hvörjum hann hefur úthellt yfir oss ríkuglíga fyrir vorn frelsara Jesúm Christum, til þess að vér réttlættir yrðum fyrir hans náð, og erfíngjar eilífs lífs eptir voninni"! Verkun sú og gleði, sem eg út af þessum og þvílíkum ritníngargreinum fundið hefi í hjarta mínu, er nú að sönnu ecki eins lifandi, sem hún allra fyrst var, og það sama gjørir mig í bland hrólígann.

Pr. Þegar ein sál fær augu sín opnuð, svo að hún fylliliga þeckt gétur sína djúplægu

syndа spillíngu, sem og þann hrædiliga háska, sem hún er í stødd, medan hún ecki hefur høndlad Jesúm; og sem hún í þessu rádaleysi sær ad reyna þá ríkugligu huggun, sem evangelíum veitir, samt ypparligleika guddómligrar nádar, eins og þad sýnist hafa tilgeingid fyrir þér, þá skédur þad ei ósjaldan, ad þvílík sála sær opt í fyrstunni ad smacka slíka gledi, sem madur ei gétur med ordum útmálad, heldur ad eins formerkt og smackad. En þessar svo lífsætu fagnadar tilfinníngar eru ei stødugar, heldur setja þær sálina í eitt stadfastara stand innvortis fridar og huggunar. Einum óreyndum christnum er þá hætt vid ad hugsa, ad þegar hann misst hefur þessa fyrstu yfirsveimandi hjartans gledi, hann hafi þá øllu tapad; en gledi hans er þarfyrir ej ad sídur sannarlig; þvert á móti er hún fastari enn ella, og hefur í sér meiri stødugleika.

V. En af hverju skal eg vita þad, ad mín gledi sé réttrar tegundar? Er þad ecki møguligt ad eg kunni ad táldraga þar med sjálfann mig?

Pr. O jú, þad er meir enn møguligt ad verda í þessu efni á tálar dreiginn; því í eptirlíkíngu Christí, um þá fernslags sádjørd, verdur talad um þesshättar fólk, sem heyrdt hafdi ordid med gledi, trúad um stundar sakir, en fallid sídan frá trúnni á eptir. Sé gledi þín sannarlig, þá flýtur hún einskostar út af réttri þeckíngu evan-

gelii. En hvört hún fljóti af þeirri uppsprettu, kann best að dæmast af þeim verkunum, sem af henni leiða; til dæmis: að frelsarinn Jesús verður í þínnar sálar augum æ dýrmætari og ómissanligri; að þú álítur sjálfann þig æ framar óverðugann hans náðar, og sem þana vesælasta syndara; að syndin verður þér æ viðbjóðsligri og andstyggiligri; að þú æ framar krossfestir holdið, með þess girndum og tilhneigingum, samt af öllu hjarta sækir eptir heilögu lífi; að þú finnur þig æ meir og meir tilknúðann að yðka kjærleika, góðmennsku, auðmýkt, hógværð, þolinmæði og umburðarlyndi, sömuleiðis á allann hátt að leitast við að frama þinna meðmanneskja tímanliga og eilífa velferð.

B. En eg óttast fyrir, að eg, þegar frá líður, kunni að tapa aptur þeim fögnuði og friði, sem eg feingið hefi, og svoleiðis rata í eitt hörmuligt ástand.

Pr. Guðs börn hafa alltíð nóga orsök að óttast fyrir því; því þeirra fögnuður og friður kann auðveldliga að skerðast og tapast. En þetta orsakast af því, þegar brestur verður á nauðsynligri árvekni hjá þeim, svo þaug, fyrir þá skuld, hrapa í syndina. Hvör og ein synd, sem maður drýgir, ef hann ekki snarliga játar hana og yðrast hennar og fær fyrirgefníngu á henni, formyrkvar hún svo sinni manns, að hann getur ei, eins skýrliga sem áður, þekt evangelii sannleika. Guðs

audi briggist og dreaur þessvegna frá hjartanu sína huggunarfullu nádarverkun, og þá minkar undir eins hjá manneskjunni hennar gledirika fullvissa um sinn óskabarnarétt hjá Gudi. Sést madur sig nú, í slíku ásigkomulagi, upp og hætti sínu ydrunar og bænar stríði, kémst hann í hættuligasta ástand. En ef vér gjørunst sárliga ángurbitnir hér út af, vidurkénnum vorar syndir og ótrúskap Gudi síndann, og á ný, af øllu hjarta, leitum med bæninni Guds nádar og fyrirgéfníngar, þá fáum vér aptur ad nýu ad reyna, ad Guds ríki er réttlæti, fridur og fagnudur í heilanda. Dæmi til þessa finnum vér augljóst á því, sem fram vid Davíd kom, eptir því sem hann sjálfur utmálar þad í 32 og 51 psálmi.

B. Eg ræd þá hér af, hvørsu naudsýnligt þad er, ad madur dagliga, svo sem einn fortapadur syndari, leiti hjá Gudi nádar, fyrir hans sonar Jesú Christi sakir.

Pr. Já sannarliga er þad svo! og þú hlýtur vel til ad sjá, ad þú aldrei tapir þessum allra dýrmætasta sannleika frá augum þér, einkum þar øll þín huggun er á hønum grundvølluð. Þad ber opt vid, ad, nær eitt Guds barn hefur med syndinni tapad sinni innvortis huggun, þá tekur þad sitt tilflugt til þeirrar andligu reynslu og fullvissu, sem þad haft hefur ad undanførnu. Þad fer ad ransaka, hvørt þad ecki géti fundid hjá

sér ástæðu nockra, af hvörri það álykta kunni að það Guðs barn sé, og lætur sig því reka minni til einhvörrar sérdeilisligrar Guðs náðar, sem það áður notið hefur, og leitast svo við að stilla sig sjálst til friðs þar með, jafnvel það á þann hátt gjöri sér falska húggun. En taki nú þess fyrri reynsla ecki svo lángt, sem það æskir, þá gjörist það vonarlaust; því hjá sjálfu sér finnur það eingann grundvöll þar til, en af vitnisburði Guðs, um hans son, kann það ecki framar neina huggun að hafa.

B. En er þá eins christins manns innvortis reynsla til eingra nota fyrir hann?

Pr. Jú, víst er hún hönum til mikilla nota, einkum, nær hann finnur sig í því ástandi staddann, sem eg áminntist. Því sámstemmi reynsla hans ritníngunni, mun hann, ef hann réttiliga notar sér hana, verða leiddur til að þeinkja til þess, er gaf hönum þá fyrstu vonar ástæðu, þegar hann, í uppbyrjun sinnar umvendunar, fann sig staddann í sínu fordæmanliga ástandi. Hann mun finna, að þegar hann, í sinni fyrstu prófun, sá sig snauðann af öllum christiligrar trúar kénni-merkjum, þá var það einúngis sannleikurinn um Jesú fullnægjugjörð, sem gjörði þá fyrstu sáluhjálpligu verkun í hans hjarta. Og þegar hönum nú undir eins til hugar kémur, að þessi Jesús er allríð hinn sami, og að hann kann þá alla eilífliga sáluhólpna að gjöra, sem fyrir hann

koma til Guds, sem og ad hann alltíd lifir til ad bidja fyrir þeim, svo mun hann, af þessari hugleidíngu, finna sig alvarliga uppþvattann til ad snúa sér til Jesúm, þegar hann syndgad hefur, til ad fá fyrirgéfningu; ecki sem einn christinn, sem allareidu af nád sé frelsadur, heldur alltíd sem einn fortapadur syndari. Ef þú nú, minn vin! svoleidis breitir, þá muntú fá haldid stadfastri vidurkénníngu vonarinnar, allt til enda. Ord postulans Jóhannesar, lútandi ad þessu efni, útheimta þína fullu athugasemi. "Ef nockur syndgar", seigir hann, hann meinar einn, sem er christinn, "þá höfum vér árnadarmanninn hjá fødurnum Jesúm Christum þann réttláta, hver ad er fridþægíng fyrir vorar syndir, þó ecki einúngis fyrir vorar, heldur og fyrir allrar verøldarinnar syndir", 1 Joh. 2, 1. 2. Af þessum ordum sjáum vér þad, ad þeir sannchristnu sjálfir hafa einga ødra rétta ástædu til sinnar vonar, enn þá sømu, sem opin stendur, jafnvel fyrir einu heimsins barni, sem enn nú liggur undir yfirdrotnun synda sinna, nefniliga Jesú algilda fridþægíngar offur; og þad er þá líka allt þad, hvørs vér vid þurfum.

B. Af þessu øllu sje eg ad eg hefi enn nú mikid ad læra, og eg þarf vissuliga ydar gódu ráda vid, um þad, á hvørn hátt eg eigi ad hegda mér svo í þessari syndafullu verøldu, ad eg tapi ecki aptur Guds nád.

**Pr.** Eg álít það skyldu mína, eins og það allrið skal vera mitt eptirlæti, að veita þér, og öllum mínum tilheyrendum, þá aðstoð, eg megna, að þeir géti náð til föðurlandsins. En það sem eg fyrst af öllu og sérílagi vil biðja þig um, er, að þú leitist við að gjöra þína köllun og útvalníngu staðfasta. En máttinn, hvörsu þú skalt að því fara, er oss kéndur, 2 Petr. 1, 5—11.

Láttu þér það aldrei úr minni falla, útúr hvílíku syndaástandi þú, í umvendaninni, frelsaður ert; lát endurminníngu þess uppfylla hjarta þitt með blygðunarsemi. Þessi þánki skal viðhalda þér í auðmýktinni fyrir Guði. Vakta þig vel við því, að þú ei með vanheilögu athæfi hryggir Guðs anda, svo hann ekki dragi sig í hlé fyrir sálu þinni. Haltu þessvegna vöku yfir hjarta þínu, og stattu á móti þeim fyrstu tilhneigíngum til syndarinnar. Hafðu vakandi auga yfir hræríngum þeirrar, hjá þér búandi, spillíngar.

Lát hvörja og eina syndúga tilhneigíngu, hégómligann þánka, leti og vanrækt í uppfyllíngu skyldna þinna kénna þér að vera auðmjúkum og vareygðarsömum. Þegar þú nú svoleiðis mistreystir sjálfum þér, þá mændu upp til Guðs, að hann styrki þig og styðji, eins og eina máttvana, hjálparlausa barnskepnu, og væntu þess, að þú, fyrir Jesú Christi meðalgaungu sakir, ödlist hans aðstoð í öllu því, sem þig umvarðar til eilífs lífs. Stattu trúliga á móti freistíngum, bæði

innvortis og útvortis frá; en varadú þig allra helst fyrir þeim syndum, sem þú veist þér allra hættast vid ad ínetjast, annadhvert af þínu eigin náttúrufari, vana, edur umgeingni med ødrum. Skyldi nú syndinn nockrusinni sigra þig, þá leitastú ecki vid ad hrinda henni úr minni þínu, edur dylja hana í þínum eigin barmi, heldur gacktú strax fram fyrir Gud, med blygdun og ángri út af yfirsjón þinni; bid hann sídan af øllu hjarta fyrirgéfníngar, og hrópadú þig uppá evangelii fyrirheit, géfin þeim syndurum, sem aptur vilia snúa; en hafdú þó allt þitt tillit til Jesúm Christum, hvosem þe's fullkomna fridþægíngar offurs og þíns fyrirbidjara hjá fødurnum; og hættú sídan aldrei ad sirda vid Gud med bæninni, inn til þe's hann veitt hefur þinni ángurbitnu sálu frid, og þú feingid hefur einn enn nú sødugri ásetníng, enn ádur, ad framgánga evangelio verdugliga. O kappkostadú í øllu ad vardveita góda samvitsku; og hafirdú nockrum órétt gjørdt, þá skammastú þín ecki ad vidurkénna þad fyrir hønum og bidja hann forláts; og vilirdú þig hafa, í vidskiptum, af ødrum haft, þá bættú þeim þad aptur, svo leingi þínar eigur tilhrøckva.

Hugsa þú, med fúsu hjarta og ydugliga, um Gud; upplyptú hjarta þínu til hans, sem sjer þína heimugligu þánka og rannsakar hjørtun og nýrun. Leitastú vid ad hafa náqvæma umgeingni med hønum, og kosta því kapps um, sem best þú

gétur, ad draga þánka þína frá jørdunni til himinsins, til þeirra hluta, sem ei sjást kunna, nema med augum trúarinnar; svo þú, med því móti, kunnir ad leidast og upplyptast til eins himneskts sinnislags, svo ad þú elskir Gud og hafir í hønum þitt mesta yndi og eptirlæti. Í stad þess, ad þú, ádur enn umvendtist, hafdir mest gaman af og tamdir þér hégómligt tal, hlýtur þú nú sídan brúka túngu þína til Guds dýrdar, med því ad vegsama ydugliga drottins nafn, lofa og tilbidja þennann stóra velgjørdafødur, seigja ødrum frá hvad hann gjørdt hafi vid þína eigin sálu, advara syndarana vid þeirri hættu sem þeim búin er, og upphvetja þá til ad óttast Gud, sem og til ad audsýna djørfúngu og alvørugéfni í hans þjónustu. Láttú adra sjá, ad þad andliga lífid, frá Gudi, búi í þér, med því ad þú lifir í hønum, og ofurseljir þig til hans þjónustu, og sért kappsamur þarí. Gjørdú nockud ad verkum fyrir hans sakir, sem gjørdt hefur svo mikid þín vegna. Géfdú allann þinn tíma og alla þína krapta hønum til þjónustu, sem útgaf sjálfann sig þín vegna; einkum neyttú allra krapta sálar þinnar til ad æfa kjærleikans skylduverk. Lát hjarta þitt vera opid fyrir øllum mønnum; lát alla þessa njóta þinna fyrirbæna og fyrirgéfníngar, og vertú ætíd reidubúin ad yfirvinna þad vonda med gódu.

Sjádú og svo til ad gudhrædslunar kraptur audsýni sig hjá þér í samvitskurískri uppfyllíngu

skyldna þinna, við alla þá, sem þú hefur sérdeilis umgeingni með. Vertú vingjarnligur, og hjarta mildur við einn og sérhvørn. Meðal þíns heimafólks hegðaðú þér sjálfum, sem ein fyrirmind uppá gêðmildi, kjærleika og umburðarlyndi. Láttú það sjá, að þú berir umsorgun fyrir sálum þess, ei síður enn líkømum, með því að vara það við syndinni, upphvetja það til Guðs ótta og æfa síkeldt eina guðliga og alvørufulla húsandagt, með lestri uppbyggiligustu bóka og hræsnislausri bænagjørð fyrir Guði. Vertú náqvæmur og samvitskusamur í allri þinni hegðun. Gêf og gjald hvørjum og einum það hønum tilheyrir, þeim skatt sem skatt eiga, þeim toll sem toll á. Vertú yfirvaldi þínu hlýðinn, að þú hvørki svíkir kóng þinn, eður aðra þína samþegna, ei heldur á nockurn hátt hyllir eður haldir með þeim, sem það gjøra.

Umfaðma sérílagi, með hjartans kjærleika, alla þá — hvørt þeir eiga að sér meira eður minna — sem af hreinskilni hafa sig Christo ofurgêfið. Þeir eru það, sem í eiginligri meiníngu heyra Jesú til, svosem hreinsaðir af sínum syndum, með hans blóði, og helgaðír, fyrir hans anda. Og til þess að upphvetja þig til því stærri kostgjæfni, í þessu trúarinnar verki og erfiði í kjærleikanum, þá skaltú ort líta með augum trúarinnar á þaug dýrðarligu laun, sem þér geymd eru, þá eilífu og yfirmáta mikilvægu dýrð, sem þú úr bítum bera

munt á þeim deigi, þá Christur umbuna vill öll þaug miskunar- og kjærleiks-verk, sem gjörd hafa verid hans sönnu limum í hans nafni, líkasem þaug hefdu sjálfum hönum gjörd verid.

Þegar þú nú nád hefur þvílíkum hugar-ástædum og þeinkíngarhætti, upptendradur af von eilífs lífs, þá kappkostadu ad fara vaxandi í þecking og hreinleika, í trú, kjærleika og Guds-ótta, í gódmildi og sérhvörri annari christiligri dygd. En til ad styrkja þig enn framar í þessu helgunarinnar verki, þá nota þér kostgjæfiliga blessun þá og nád, sem fólgin er í réttri brúkun opinberrar og heimugligrar húsandagtar, í Guds ords heyrn og lestri, bædi útan kyrkju og innan, í hvíldardagsins samvitskusullu haldi og í drottins kvöldmáltídar réttskickadri medtekníngu, samt kostgjæfiligri æfingu sérhvörrar og einnar þeckirar skyldu.

B. Eg þacka ydur, prestur gódur! fyrir þessar dýrmætu rádleggíngar og uppörfanir. Eg sje ad eg á eitt stórt verk fyrir höndum ad vinna, en eg vona, fyrir Guds hjálp, ad géta framkvæmt þad, og stadid stödugur allt til enda.

Pr. Vissuliga máttú, minn vin! búast vid mörgum ördugleika og mikilli mótstödu í þessu þínu helgunar verki. Vegurinn til himnaríkis er krossins vegur, sem liggur í gégnum mikla hrígd og mædu. Holdid, heimurinn og Satan eru sterkir og slægir óvinir, sem med nákvæmu samheldi strída

allir á móti þér. Þín eigin spilta náttúra mun alltíð leitast við að afvegaleiða þig með sínum tilteigíngum, gjöra þér mótstöðu og draga þig frá þeirri réttu hunnastefnu. Já hún mun allatíð, svo leingi þú lifir, verða þér ein byrði. Þitt eigið hjarta mun verða þín stærsta plága. Þar-fyrir utan, undireins og menn verða þess varir, að þú vikinn ert frá þeim breiða veigi, á hvörjum fólk almennt reikar til sinnar fordjörfunar, máttu búgast við að þú færð marga í heiminum upp á móti þér.

Ekki einúngis þeir ógudligu munu gjöra spie og spott að þér, heldur muntu og svo verða eitt skotmál fyrir hatur og hæðni þess fólks, sem hið ytra lifir hæverskum lifnaði, og sem að eins heldur sig til þeirra útvortis trúarbragða æfínga. Þessir munu þeinkja með sjálfum sér, eins og fordum Pharisæar: "með því að hann breitir svo, og víkur frá þeim almennt viðtekna veigi, og brúkar strángara vandlæti, enn vant er til, þá fordæmir hann líka svo oss." Þessum tveimur innbyrðis sameinudu óvinum, holdi og heimi, veit Satan að stjórna með mikilli og furdanligri konst, og sjálfur hann innstýtur líka, í bland, vondum þaunkum, þegar hönum þar-til tækifæri gefst. En, góði vin! vertú samt ekki hræddur! Guð, sem í þér uppbyrjað hefur það góða verkið, hann mun og sjálfur framkvæma það og fullkomna. Christur lifir æíð og biður fyrir oss. Hann kann og vill

í sérhvörri þreingíngu, sem aðkémur, frelsa þann, sem fyrir han er kominn til Guðs. Þeir heilögu einglar munu og svo vernda þig, og öll sönn Guðs börn munu innilykja þig í sínum bænum og bróðurliga kjærleika. Þeir sem eru með þér, eru fleiri enn þeir sem eru á móti þér. Þó skaltú trúliga vgrast að verða ecki drambsamur þar út af í sinni þínu, heldur alltíð þeinkja til þess, sem Salómon seigir: "vér berum vorn fésjóð í leirkérum", og til Pauls orða: "verkið ydar sáluhjálp með ugg og ótta"!.

Til þess nú, að lyktum, að géfa þér frekari upphvatníngu til kostgiæfni og vareygðar á þeim þraunga veigi, vil eg inniliga biðja þig opt að íhuga eptirfylgjandi Guðs anda áminníngar í heilagri ritníngu. Í pistl. til Rómv. 12, 1. 2, seigir Páulus: "Svo áminni eg ydur nú, kjærir brædur, fyrir Guðs miskunsemi, að þér géfið ydar líkami til þess offurs, sem er lifandi, heilagt og Guði þacknæmt, og ydar skynsamlig Guðs þjónusta, og hegðið ydur ecki eptir heimi þessum, heldur umbreitið ydur, í endurnýúngu ydvars hugskots, svo þér reyna mættuð, hvör að sé Guðs góður, þacknæmur og algjördur vilji." Jóhannes seigir í síns 1 pistl. 2, 15.: Elskið ecki heiminn, og ecki heldur þá hluti, sem í heiminum eru; sá sem elskar heiminn, í hönum er ecki kjærleiki föðursins." Jacob seigir 4, 4.: "Vitið þér ecki að heimsins vinskapur er Guðs óvinskapur. Hvör

sem vill vera heimsins vinur, verdur Guds óvinur." Aptur seigir Páulus 1 Cor. 6, 20.: „Þér erud ecki ydar eigin herrar, því þér erud dýru verdi keyptir; dýrdkid þessvegna Gud í ydar líkama og í ydar anda, sem Gudi tilheyra." Col. 2, 6, 7.: „Eins og þér nú medtekid hafid drottinn Jesúm, svo gángid í hönum, og gjörist rótfastir og uppbygdir í hönum, og verid stödugir í trúnni, svo sem ydur befur kénnt verid, og verid í henni ríkugliga þacklátir." 1 Thess. 5, 16–18.: „Verid álltíd gladir! bidjid óaflátanliga! verid þacklátir í öllum hlutum, því þad er Guds vilji til ydar í Jesú Christo." Col. 3, 1.: „Og þar sem þér erud nú upp aptur risnir med Christo, svo leitid þess hvad þar uppi er, þar Christur er nú sitjandi til Guds hægri handar." Tit. 2, 13: „Og bídid þeirrar sáluhjálpligu vonar og þess stóra Guds og frelsara Jesú Christi dýrdarfullu opinberunar!

---

Prentvillur i No. 12.

Bls. 4, l. 19 opinbera les opinbera.
— 9, - 11 svík l. svik.
— 20, - 14 hafa l. hafi.
— 23, - 29 bardómi l. barndómi.

---

Kaupmannahöfn 1818.
Prentad hjá Þorst. Einarss. Rangel.